GUNNAR DAL:

Vera, ljóð, 1949
Sfinxinn og hamingjan, ljóð, 1953
Rödd Indlands, 1953
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954
Sfinxinn og hamingjan, 2. útg., 1954
Sókrates, 1957
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958
Októberljóð, 1959

Saga heimspekinnar:
Leitin að Aditi, 1961
Tveir heimar, 1961
Líf og dauði, 1961
Hinn hvíti Lótus, 1962
Yoga Sútra Patanjalis, 1962
Sex indversk heimspekikerfi, 1962

EFNISYFIRLIT:


Sex indversk heimspekikerfi 9

Nyaya-heimspekin 11

Vaisesika-heimspekin 19

Samkhya-heimspekin 32

Yoga-heimspekin 43

Mimamsa-heimspekin 46

Vedanta-heimspekin 58

## *Sex indversk heimspekikerfi*

„Sad darsanas", eða hin sex heimspekikerfi eru: — Nyaya (Höfundur Gotama), Vaisesika (Höfundur Kananda), Samkhya (Höfundur Kapila), Yoga (Höfundur Patanjali), Purva Mimamsa (Höfundur Jaimini) og Uttara Mimamsa eða Vedanta (Höfundur Badarayana). Þessi kerfi eru kennd við hindúa eða brahmatrú, þótt margt í þeim sé sameiginlegt allri indverskri heimspeki. Þessir heimspekiskólar mótast á hinu svonefnda „sútru tímabili" (600 f.K. til 200 e.K.), en blómaskeið þess er frá 400—200 f.K. — Hver skóli kom sér upp sinni fræðibók, er nefndist „sútra". Hinir raunverulegu höfundar þessara fræða eru óþekktir. Hver skóli var aldir að mótast, og hundruðir hugsuða hafa lagt þar hönd á plóginn. Fræðslan var í fyrstu munnleg í öllum þessum skólum. Þess vegna

eru þeir til áður en fyrstu sútrurnar eru skráðar. Þær eru safnrit, þar sem öllum niðurstöðum er safnað saman á einn stað. Sennilega hefur hvert einstakt stef grundvallarritsins átt að minna á kapítula, sem kunna átti utanað eða útskýra munnlega, og draga þessar bækur einmitt nafn sitt af því. (Sútra: — þráður sem tengir saman). Þær eru með afbrigðum stuttorðar og afmarkaðar. Síðar, er hin munnlega þekking tók að gleymast, voru skrifaðar margar skýringarbækur við hvert grundvallarrit til að gera þau skiljanlegri. — Það er hins vegar algengast að kalla þann, sem tekur saman hina fyrstu bók (sútru) hvers skóla, höfund hans. Kerfin taka breytingum er aldir líða og hafa þróazt alveg fram á þennan dag. Það var siður indverskra heimspekinga að endurrita eldri heimspeki við hæfi nýrra tíma og setja fram sínar hugmyndir í nafni annarra með orðunum: — „Þetta hef ég heyrt".

Öll heimspekikerfin viðurkenna Vedabækur, einkum kenningar hinna fornu fræðara (risis) Upanishadanna. Hið sama má raunar segja um heimspekiskóla búddismans. Samt er yogaheimspeki Patanjalis að mestu óháð Vedabókum, og Nyaya, Vaisesika og Samkhya byggjast

ekki á þeim nema að nokkru leyti. Jafnvel Púrva Mimamsa, sem mesta áherzlu leggur á óskeikulleika Vedabóka, sniðgengur kenningu þeirra um tilveru „hins hæsta anda“.

Skáld og spámenn Vedabóka verða í hinum sex heimspekikerfum að beygja sig undir klafa rökfræðingsins, og atmavidya rennur saman við anúiksiki. Það sem er sameiginlegt allri indverskri heimspeki hefur verið rætt áður (bók I-V). Í þessari bók verður einkum rætt um það, sem greinir hana sundur.

## *Nyaya-heimspekin*

Þungamiðju Nyaya-heimspekinnar mætti kalla indverska rökfræði. Þar er gerð tilraun til að kortleggja veröld þekkingarinnar og greina rétt frá röngu. Öll önnur indversk heimspekikerfi viðurkenna höfuðatriðin í rökfræði Nyaya-heimspekinnar og nota aðferð hennar jafnvel til að gagnrýna hana sjálfa.

Deilur hinna lærðu um rétta túlkun Vedabóka og siðareglur trúarinnar leiddu smám saman til fræðigreinar, sem nefndist Tarkavidya eða vísdómur rökræðna, og þau fræði urðu aðaluppistaða Nyaya-heimspekinnar.

Orðið Nyaya merkir „hið rétta“, og það orð var því notað um réttar ályktanir og rétta þekkingu (pramanasastra).

Þessi heimspeki er sögð eldri en búddatrú. Elzta bók sem varðveitzt hefur um kenningar hennar, er Nyaya Sútra (frá 3. öld f.Kr.) eftir Gotama, og er hann því talinn höfundur þessa heimspekiskóla. Nyaya Sútra skiptist í fimm bækur. Hin fyrsta gerir grein fyrir sextán vandamálum, sem rædd eru í hinum fjórum. Í bók tvö er fjallað um eðli efans og gildar og ógildar sannanir. Í hinni þriðju er rætt um líkamann, skynjun og skynfæri, hugarstarfsemina og hugann. Hin fjórða tekur viljann til meðferðar, þjáninguna og frelsun sálarinnar. Hin síðasta ranga og rétta gagnrýni. — Merkasta skýringarritið, sem samið hefur verið um þessa bók er Nyaya-Bhasya (frá 4. öld e.Kr.) eftir Vatsyayana.

Nyaya-heimspekin hefst á þeirri staðhæfingu, að við skynjum heiminn eins og hann raunverulega er. Í þessari staðhæfingu liggur styrkur hennar, sem rökfræði við hæfi venjulegra vitsmuna, en um leið veikleiki hennar til að leysa á viðunandi hátt gátuna um samband anda og hlutveruleika. Hún er eini indverski

heimspekiskólinn, sem gerir ráð fyrir, að skilningarvit og skynsemi mannsins séu að mestu leyti fær um að leysa trúarleg og heimspekileg vandamál og þekkja hið rétta eðli veruleikans.

Maðurinn er sagður afla sér þekkingar sinnar eftir fjórum leiðum: Með pratyakasa eða skynjun og innsæi, anúmana eða ályktun, apúmana eða samanburði og sabda eða þeirri þekkingu, sem talað og ritað mál veitir.

Pratyakasa er uppspretta þekkingarinnar. Orðið er notað jafnt um skynjun, innsæi og þann skilning, sem af þessu leiðir. Pratyakasa byggist hvorki á neinum forsendum né samanburði, heldur er það bein skynjun á veruleikanum. Gotama segir, að skynjun sé sú þekking, sem „mótast við snertingu vitundarinnar við hlutinn, og óskýranleg sé með orðum". Skynjun er að dómi Gotama, að hið skynjaða mótist í sjálfið (það sem skynjar) „eins og innsigli mótast í vax".

Skynjun er sögð með tvennu móti, savikalpaka og nirvikalpaka. Hin síðari er skynjun án orða (óskilgreind skynjun). Hún er skynjun sofandi manns, skynjun óvitans og öll skynjun, sem ekki er skilgreind, mótuð og sett í orð. Hin fyrri er skilgreind og mótuð í orð. Sú skynj-

un er jafnan háð þeim orðum, sem um hana eru notuð, því að skynjun manna er lituð af fyrirfram ákveðnum hugmyndum.

*Anúmana: ályktun.*

Anúmana merkir upphaflega viðmiðun eins fyrirbrigðis við annað. Hún er aðferð til að vita það, sem ekki er beinlínis skynjað. Þar sem um beina skynjun er að ræða, er anúmana óþörf. Hana er ekki heldur hægt að nota um hið óþekkta. Hlutverk hennar er að fá vissu um það, sem efazt er um; — það sem menn sjá er notað til að þekkja það sem menn sjá ekki. Í indverskri rökfræði þróast anúmana í ákveðna skynsemisályktun, sem er í fimm liðum. Í Nyaya Sútru Gotama er hún skýrð þannig: Fyrsti liður anúmana er ágizkun byggð á líkum (pratijna): „Það logar eldur á fjallinu". Annar liðurinn er ástæðan fyrir þessari ágizkun, (hetu): „vegna þess að það leggur reyk upp af því" (í þessu dæmi táknar reykur hvorki ryk eða gufu). Þriðji liðurinn (údaharana) er útskýring á orsakatengslunum, og dæmi um það: — „Það er enginn reykur án elds, sbr. eldstóna". Fjórði liður (úpanaya) er heimfærsla

þriðja liðar upp á þann fyrsta: „Og það á við um þetta fjall“. Fimmti liðurinn (nigamana) er fullyrðing lokaniðurstöðunnar: — „Þess vegna logar eldur á fjallinu“.

Ýmsum heimspekingum Nyayaskólans þótti þetta óþarflega flókin rökfræði um einfalt fyrirbrigði, sem byggist raunar eingöngu á skynjun og reynslu. Heimspekingarnir Dignaga og Nagarjúna benda báðir á í ritum sínum, að óþarft sé að hafa liðina fleiri en þrjá, þar sem fimmti liður endurtekur hinn fyrsta og fjórði liður endurtekur annan lið.

Heimspekingnum Dharmakirti finnst tveir liðirnir nægja: „Það er eldur á fjallinu, vegna reyksins“. Ágizkunin (eldurinn) er fólgin í ástæðu hennar (reyknum). Reynslan hefur kennt mönnum að þetta tvennt fer jafnan saman. Niðurstaðan virðist hafa orðið sú, að tveir liðir nægðu heimspekingum, en nota bæri alla fimm í rökræðum við almenning.

*Aðleiðsla.* Í rökfræði Nyaya eins og í rökfræði Aristótelesar er aðleiðsla (induktion) skilgreind sem „rökfærsla frá hinu einstaka til hins almenna“. Aðleiðsla getur verið á þrjá vegu: Frá hinu einstaka til hins einstaka, frá hinu ein-

staka til ákveðins fjölda og, eins og algengast er, frá einstökum staðreyndum, sem lagðar eru fram sem rök fyrir almennu lögmáli.

Aðleiðsluályktun er aldrei fullkomin og örugg, jafnvel ekki þegar öll reynsla okkar styður hana. Hún getur aldrei byggzt nema á broti þeirra staðreynda, sem við þyrftum á að halda til að sanna að hún sé örugg, alltaf og við allar aðstæður. Fyrirbrigði sem alltaf fara saman (t. d. regn og ský) mega að vísu kallast örugg, þ. e. náttúrulögmál. En niðurstaðan um slík orsakatengsl er ekki fengin með aðleiðsluályktun, heldur með beinni reynslu: Afleiðingin (regn) er eiginleiki orsakarinnar (ský).

Aðleiðsla er þannig aldrei nema sennileg eða takmörkuð röksemdarfærsla. — Hún er byggð á beinni reynslu fyrir tilveru lögmála, eða fyrir því að ákveðnir atburðir muni gerast eða hafi gerzt.

Nyaya heimspekin ræðir þrjár aðferðir til að finna almenn lögmál: 1) Upptalning á staðreyndum, sem allar benda til hins sama, án undantekningar. 2) Innsæi. 3) Óbein sönnun (tarka).

Tarka, hin óbeina sönnun hefst á rangri fullyrðingu, en síðan er sýnt fram á, að hún fái

ekki staðizt, og að hið gagnstæða sé rétt. Dæmi: „Ef sálin væri ekki eilíf, myndi hún ekki geta uppskorið ávexti verka sinna, endurfæðzt eða náð fullkomnun. Þess vegna er hún eilíf". — Tarka er notuð, þegar renna þarf stoðum undir staðhæfingu um eitthvað, sem ekki byggist á beinni skynjun í veröld hlutveruleikans. Hún er ekki talin óyggjandi fremur en aðleiðsluályktun, sem byggist á staðreyndum hlutveruleikans. Innsæisþekking sjáandans á því hér æðsta leik í tafli.

Nyaya-heimspekin skiptir orsökum í þrjá flokka: 1) Úpadana, hin efnislega orsök hlutarins, t. d. ullin í klæðinu og leirinn í kerinu. 2) Asamavayi hin óefnislega orsök, — það form sem efnið breytist í t. d. gerð og litur klæðisins eða kersins. 3) Nimitta, hin virka orsök, vefarinn eða leirkerasmiðurinn.

Nyaya kennir að aðeins sé til ein orsök fyrir hverri afleiðingu. Ef mönnum virðist fleira koma til greina er það sagt byggjast á ónógri athugun á afleiðingunni. Flóð í á getur t. d. aðeins átt sér eina orsök. Yfirborðsleg athugun fær menn til að halda að orsakir gætu verið fleiri en ein; leysing, rigning eða að stífla hefði brostið. Nánari rannsókn leiðir í ljós, að flóð

sem orsakast af rigningu er öðruvísi, en flóð, sem orsakast af brostinni stíflu. M. ö. o. sé betur að gætt, getur afleiðingin átt sér aðeins eina orsök. Ef um margar orsakir gæti verið að ræða, fyrir einhverjum ákveðnum atburði myndi Nyaya-heimspekin missa sitt rökfræðilega gildi.

Sagt er að orsökin fari alltaf á undan afleiðingu hennar. Þetta hafa margir gagnrýnt og bent á að oft fari orsök og afleiðing saman (t. d. eldur og hiti, logi og ljós), og ekki sé hægt að segja að annað sé undanfari hins. Orsökin er þar alltaf virk og byrjar ekki á einhverjum ákveðnum tíma að skapa afleiðinguna.

Nyaya mótmælir þeirri kenningu Samkhya-heimspekinnar að „það sem ekki er til, geti aldrei orðið til". — Klæðið er ekki í þræðinum segja Nyaya-rökfræðingarnir, hin virka orsök skapar það sem ekki var til áður. Ef skoðun Samkhya-heimspekinnar væri rétt á eðli orsaka og afleiðinga, hefði hin ósýnilega prakriti aldrei getað orðið veröld hins ytri veruleika. Þessi ágreiningur byggist þó fyrst og fremst á því, að skólarnir líta á vandamálið frá mismunandi hlið. Samkhya neitar ekki breytingum

hinnar virku orsakar en leggur áherzlu á að ekkert skapist úr engu.

Hægt er einnig að afla þekkingar með samanburði (úpamana) og með bóknámi (sadba). Það er hægt með samanburði að álykta um eitthvað vegna skyldleika þess við annað sem við þekkjum.

Nyaya rökfræðin viðurkennir helgivald ritninganna, t. d. Vedabóka og telur þær opinberaða þekkingu. Slík þekking (sadba) er þó einkum talin hafa gildi fyrir guðfræðingana. Aðrir verða að beygja hugmyndir sínar undir ok staðreyndanna. Gild þekking verður að sannast með skynjun, réttri ályktun, aðleiðslu, afleiðslu eða samanburði, — og hún verður að standast dóm reynslunnar. Sú sönnun þarf ekki að vera endanleg, en hún er einstígi þeirrar þekkingar, sem byggist á mannlegri skynsemi.

## *Vaisesika-heimspekin*

Þessi heimspekiskóli dregur nafn sitt af þeirri kenningu, að þekkingar á eðli veruleikans verði bezt aflað með því að kanna hina sér-

stöku eiginleika (visesa) hlutanna, eða þann grundvallarmismun sem greinir eitt fyrirbrigði frá öðru.

Vaisesika og Nyaya heimspekin hafa að mestu leyti runnið saman í eitt kerfi, þar sem kenningar beggja eru svipaðar eða hinar sömu. Aðalmunur þessara heimspekiskóla er sá, að Nyaya leggur aðaláherzlu á rökfræðina en Vaisesika á að kanna niðurröðun hlutanna, eðli sálnanna, og samband veraldarinnar og guðs.

Bæði Nyaya og Vaisesika boða kenninguna um tilveru óendanlega margra sálna, sem varðveita einstaklingseðli sitt um alla eilífð, — kenninguna um að veröldin sé gerð úr ótölulegum fjölda atóma, — og kenninguna um persónulegan guð. En þessi guð hefur hvorki skapað atómin né sálirnar. Hvorutveggja er óskapað, því að hið eilífa á sér ekkert upphaf. Guð Vaisesika er heimssmiðurinn, sem aðeins smíðar úr efnivið sínum, en býr efniviðinn ekki til. Og eins og smiður er annað en það sem hann smíðar, eins er guð annað en verk hans.

Vaisesika er heimspeki aðgreiningarinnar. Áhangendur þessa skóla völdu sér að leiðarljósi vísdómsorðin „sannleikurinn mun gera

yður frjálsan": — óttinn stafar af hinu óþekkta, orsök þjáningarinnar er fáfræðin. Spámenn Vaisesika töldu að leiðin frá ótta og þjáningu væri glögg sundurgreining hluta og verunda.

Könnun þeirra leiddi til þess, að þeir flokkuðu tilveruundrið í sjö padartas, — allt sem orð nær yfir eða skynjanlegt er. Hin sjö padartas eru: — dravya (grundvöllurinn, eða verundir alls níu talsins), guna (eiginleikar), karma (starf), samanya (hið almenna), visesa (hið einstaka), samavaya (ívera) og abhava (ekki-vera).

Dravya, grundvallarveruleikinn, þekkist á eiginleikum sínum. Þessir eiginleikar eru tvenns konar. Þeir sem eru almennir og finnast í öllum einstaklingum (samanya) og þeir sem eru bundnir hinu einstaka (visesa). Visesa skiptist aftur í varanlega eiginleika (guna) og tímabundna eiginleika (karma). Ívera (samavaya) er sérstök tegund innri sambanda. Abhava (ekki-veran) er ekki talin með í hinu upphaflega kerfi en er viðbót síðari tíma. Heimspekingarnir Sridhara, Udayana og Sivaditya telja hana allir með í ritum sínum. — Kananda höfundur Vaisesika heimspekinnar kennir, að þrjá fyrstu flokkana (dravya, guna og karma)

sé unnt að skynja með innsæi yogans. Hinir eru fóstur rökfræðinnar.

Kananda er talinn hafa verið uppi á 3. öld f. K. Hann gengur undir ýmsum nöfnum, Kanabhuj, Kanabaksa (sem eins og Kananda þýða orðrétt „atómætan“) og Auluka (uglan). Öll þessi nöfn hefur hann hlotið vegna atómkenningar sinnar, en skírnarnafn hans var Kasyapa. Þótt Vaisesika heimspekin sé sögð eldri en búddatrú og jainismi, er Kananda talinn höfundur hennar, vegna bókar sinnar Vaisesika Sútra, sem er elzta rit þessa skóla.

*Dravya.* — Vaisesika Sútra kennir að grundvöllur tilverunnar (dravya) séu níu óforgengilegar verundir: — parthivi (jörð), apas (vatn), tejas (eldur), vaya (andrúmsloft), akasa (ljósvaki), kala (tíminn), dik (rúmið), atman (sjálfið) og manas (hugurinn).

Fyrstu fjórar verundirnar eru sagðar gerðar úr paramanú. Það orð merkir hina smæstu hugsanlegu efnisögn og hefur að jafnaði verið þýtt með atóm, þótt villandi sé. Atóm er ekki hin smæsta efnisögn (paramanú), og í öðru lagi er atómkenning Vesturlanda gjörólík hugmyndum bæði Vaisesika og Demókritosar hins gríska. Þær eiga þó allar það sameiginlegt að

gera ráð fyrir að tilveran sé byggð upp úr öreindum, þótt eðli þessara öreinda sé þar mismunandi og raunar er kenningin um atómið enn að gjörbreytast með nýjum vísindum. — „Atóm“ Kananda eru sögð yfirskilvitleg, þótt þau séu grundvöllur hins skynjanlega heims. Þau eru einnig sögð margbreytileg að gerð og eðli, eins og sjá má af hinum mismunandi hlutveruleika sem þau mynda.

Fimmta verundin (dravya) er akasa, ljósvakinn, — dregið af rótinni kas sem merkir að skína eða birtast. — Akasa fyllir allt rúmið, er óhagganlegt, litlaust, lyktarlaust og bragðlaust. Ef mönnum virðist annað, þá er það vegna þess að akasa er blandað öðrum efnum. Akasa er ósamsett og án andstæðna. — Og þar sem öll skynjun byggist á andstæðum, verður akasa sjálft yfirskilvitlegt. — Hins vegar er það grundvöllur hljóðsins, og hljóðið er sá eiginleiki akasa, sem greinir það frá öllu öðru, og gerir það að sérstakri verund. Akasa er einnig sagt hafa mótað það skilingarvit, sem hljóðið nemur, heyrnina.

Akasa er ekki gert úr paramanú en það er aflið sem tengir þau saman og greinir þau sundur. Ef akasa væri úr efnisögnum þyrfti enn

aðra verund, án efnis, sem efnið birtist í. Þess vegna er akasa sjálft efnisvana, en það er tengt öllum hlutum og óendanlegt í tíma og rúmi.

Sjötta verundin *kala* (tíminn) er ástand allrar hreyfingar, og aflið sem veldur breytingum allra stundlegra hluta. Sagt er að tíminn sé sérstök verund, vegna þess að hann er óháður öllu öðru. Kala er þó ekki hið alheimslega afl, sem veldur allri hreyfingu. Vaisesika heimspekin kennir, að kala birtist jafnan í gervi breytinga og hreyfingar, en að tíminn sjálfur sé leyndardómur sem við ekki þekkjum, jafnvel þótt öll skynjun okkar sé háð honum.

*Dik* (rúmið) er hin sjöunda dravya. Orðið dik er dregið af rótinni dis: að benda á, sýna. Það er birting þess afls, sem raðar niður og heldur saman öllum efnislegum hlutum og markar afstöður þeirra.

Áttunda verundin er *atman* (sálin). — Kenningin um tilveru sálarinnar er byggð á þeim forsendum, að vitundin geti ekki verið eiginleiki líkamans, skilningarvitanna eða hugans: Skilningarvitin, hugurinn, tilfinningar og þekking hljóta að eiga sér annan grundvöll. Sá grundvöllur getur ekki verið neinn þeirra verunda, sem nefndar hafa verið, (jörð, vatn, eld-

ur, loft, ljósvaki, tími og rúm). Hann hlýtur að vera ný verund, sem er andlegur grundvöllur, — atman.

Eins og akasa er grundvöllur hljóðsins, eins er atman grundvöllur sjálfsvitundarinnar. Í hinu rétta eðli sínu er atman þó sagt án sjálfsvitundar, og þannig er ástand þess þegar atman hvílir í pralya (heimsnótt). Sjálfsvitundin skapast fyrst, þegar atman kemst í snertingu við aðrar verundir. Með hjálpartæki sínu, manas, skynjar atman umheiminn og eiginleika sína. Þótt Nyaya og Vaisesika séu um flest sammála hvað atman snertir, hafnar þó Vaisesika þeirri kenningu Nyaya, að atman geti skynjað eðli sitt beint, án hjálpar manas og verið í senn skynjandi og hið skynjaða.

Sálirnar eru sagðar óendanlega margar og halda alltaf sérkennum sínum bæði meðan þær eru háðar endurfæðingum og eins eftir að þær eru frelsaðar.

Níunda og síðasta verundin í heimspeki Kananda er manas, dregið af rótinni man: að hugsa. — Manas í Vaisesika heimspekinni er hugurinn í sinni víðtækustu merkingu: skynjun, skilningur og vilji. Manas er tæki sálarinnar og fylgir henni gegnum allar endurfæð-

ingar um hinar þrjár veraldir. Það eru þessvegna til jafn mörg manas og sálir þ. e. a. s. ótölulegur fjöldi: Vaisesika skilur þannig við grundvöll tilverunnar sem óteljandi visesa en finnur þeim engan sameiginlegan grunn.

*Guna.* — Guna (annað hinna sjö padartha) merkir í Vaisesika heimspekinni alla eiginleika hinna níu verunda (dravya).

Kananda telur upp sautján slíka eiginleika, og heimspekingurinn Prasastabada bætir síðar sjö öðrum við. Þessir eiginleikar eru:

1) Litur (rúpa) er eiginleiki jarðar, vatns og ljóss. Litirnir eru sagðir sjö talsins.

2) Smekkur eða bragð (rasa) er eiginleiki jarðar og vatns.

3) Ilman (gandha) er eiginleiki jarðar.

4) Snerting (sparsa) er eiginleiki jarðar, vatns, ljóss, og lofts.

5) Hljóðið er eiginleiki akasa.

6) Fjöldi (samkhya), 7) Stærð (parimana), 8) einstakleiki (parthaktva), 9) samsetning (samyoga) og 10) aðskilnaður (vibhaga) eru eiginleikar allra verunda.

11) Fyrir (paratva) og 12) eftir (aparatva) eru afstöður í tíma og rúmi fremur en beinir

eiginleikar. Þeim er báðum sleppt hjá nútíma Vaisesikum.

13) Sæla (sukha), 14) þjáning (duhka), 15) þrá (iccha), 16) hatur (dvesa), 17) vilji (prayatna) og 18) þekking (buddhi) eru allt eiginleikar sálarinnar.

19) Þyngd (gurutva) er eiginleiki jarðar og vatns.

20) Fljótanleiki (dravatva) er eiginleiki vatns og jarðar.

21) Viðloðan (sneha) er eiginleiki vatnsins.

22) Dharma og 23) adharma eru eiginleikar sálarinnar sem úthluta manninum forlögum, þjáningu eða hamingju, eftir breytni hans, orðum og hugsunum.

24) Samskara (hæfileikinn til að safna karmaforða) er hið ósýnilega afl orsaka og afleiðinga, sem allir hlutir eru háðir og lætur allar sálir uppskera ávextina af athöfnum fortíðar sinnar, unz endurfæðingum lýkur. Öll fyrirbrigði sem ekki verða flokkuð undir neinn hinna 23 eiginleika, skýrir Vaisesika heimspekin með samskara.

Samskara greinist í þrennt: 1) vega (hraði), aflið sem heldur hlutunum á hreyfingu. 2) bha-

vana, það sem gerir sálinni fært að muna reynslu sína. 3) stitisthapaka (sveigjanleiki) það sem gerir sálum og hlutum fært að ná aftur sínu upprunalega ástandi.

*Karma.* — Karma (hreyfing) er sjálfstætt afl og hvorki verund (dravya) eða eiginleiki (guna). Karma nær aðeins til fimm verunda (jarðar, vatns, lofts, elds og manas) en ekki til akasa, tíma, rúms, og atmans (sálna). — Karma er ekki dravya, vegna þess að öll hreyfing er háð verundum og karma er ekki eiginleiki því að aðeins hið varanlega er talið eiginleiki. Þannig er t. d. þyngd steinsins guna, en fall steinsins karma. Karma merkir í þessu sambandi hvorki sjálfráða athöfn eða siðferðislögmál, aðeins hreyfingu.

*Samanya.* — Samanya (hið almenna) og visesa (hið sérstaka) eru fjórða og fimmta padartha Vaisesika-heimspekinnar. Samanya er það sem er sameiginlegt hlutunum en visesa það sem greinir þá sundur.

Hin hæsta samanya er tilveran (sattva), sem er sameiginleg öllum hlutum. Að öðru leyti er samanya aðeins að finna í verundum, eiginleikum og hreyfingu en ekki í hinum fjórum síðasttöldu padartha.

Kananda bendir á að flokkun bæði hins almenna og hins einstaka sé mjög háð mannlegri hugarstarfsemi. Hins vegar er hann því andvígur að samanya sé aðeins nafnið tómt eins og sumir heimspekingar (einkum búddistar) á hans tíð álitu, eða að það mótaðist eingöngu af hinni innri gerð mannlegra skilningarvita (conceptualism). Samanya (hið almenna) er í hlutunum sjálfum. „Við gerum ekki hunda líka hvern öðrum, þegar okkur sýnist þeir svipaðir". Að þessu leyti er Vaisesika skyld kenningu Aristótelesar um „universalia in re" (algildið í hlutunum sjálfum). Hins vegar gera sumir heimspekingar Vaisisika ráð fyrir að samanya sé til óháð hinu einstaka eða hlutunum sem það birtist í og styðja þannig kenningu Platós um „universalia ante rem".

*Vesisa.* — Vaisesika heimspekin dregur nafn sitt, eins og áður er sagt, af visesa: — hinu sérstaka. Hver verund, jafnt þær sem samanstanda af atómum og hinar efnisvana, einkennast af visesa, sem greinir hana frá öllu öðru. Visesar eru sagðir óendanlega margir þar sem jafnvel hvert atóm hefur sinn visesa. — Nútíma Vaisesikar hafna þó hinni upprunalegu visesa kenningu eins og Vedanta heimspekin á

þeirri forsendu, að hlutum sem eru mismunandi í innsta eðli sínu sé ekki hægt að finna neinn sameiginlegan grundvöll.

*Samavaya.* — Samavaya (ívera, hið sjötta padhartha) merkir hér fyrst og fremst það sem fer saman og falið er hvað í öðru. Það merkir hjá Kananda sambandið milli verundar (dravya) og eiginleika (gúna) hennar, — eða sambandið milli heildar og hinna einstöku hluta hennar.

Samavaya er t. d. sambandið milli sálarinnar (atman) og eiginleika hennar, vilja, hamingju, þjáninga, langana, haturs og þekkingar. En það merkir hins vegar ekki sambandið milli þessara eiginleika innbyrðis.

*Abhava.* — Abhava (ekki-veran) var hugtak, sem ekki hafði neina merkingu að dómi Kananda, og ekki talið með sem sérstakt padharta. Lærisveinar hans bættu því hins vegar við af rökfræðilegum ástæðum. Án þess, sögðu þeir, yrðu allir hlutir eilífir. Vedanta heimspekin hafnar kenningunni um Abhava eins og hún er sett fram í Vaisesika heimspekinni, þ. e. tilveruleysi fyrirbæris, áður en það birtist og eftir að það er liðið undir lok, en talar hins vegar um „asat“ (ekki-vera), sem Vedanta segir að

sé óvirkt ástand hins alheimslega grundvallar, eða andi hins óborna.

*Guð.* — Í Vaisesika Sútru Kananda er samskara eða adrsta aflið sem stjórnar tilverunni, sálum og efni, sem aldrei var skapað. Heimspekingurinn Samkara, einn af höfundum Vedanta bendir á í gagnrýni sinni á Vaisesika, að þessi heimspeki útiloki guðshugmyndina. Heimspekingum Vaisesika þótti er stundir liðu ekki stætt á að kenna, að vitundarlaus atóm gætu skapað hina margbreytilegu dýrð veraldarinnar, eða að hin fullkomna niðurröðun allra hluta hefði gerzt af tilviljun og af sjálfu sér. Sálirnar að sögn Vaisesika-heimspekinnar eru ekki vitsmunaverur í pralya (heimsnótt) og geta því ekki stjórnað hreyfingu atómanna á morgni heimsdagsins. Hvorki atóm eða sálir gátu því verið hinir alheimslegu vitsmunir að baki heimssamræmisins.

Guð Vaisesika heimspekinnar er eins og fyrr segir ekki skapari heimsins, hvorki efnis né sálna, en (eftir kenningum síðari tíma Vaisesika) setur hann framvinduna af stað í byrjun heimsdagsins og stjórnar veröldinni.

En þrátt fyrir þessa viðbót við hina upphaflegu kenningu, er erfitt að finna nokkurn einn

þráð, sem tengir saman hinar mörgu verundir, sálir, atóm og padartha Vaisesika heimspekinnar. Hennar hlutverk er sundurgreiningin. Sameiningin er hins vegar verkefni Samkhya og þó einkum Vedanta heimspekinnar.

## *Samkhya-heimspekin*

Það, sem greinir Samkhya heimspekina einkum frá kenningu Upanishada, er sú skoðun, að ekki sé til nein alheimssál, sem allar sálir séu komnar frá og hverfi til. Samkhya heimspekin kennir, að sálirnar séu óendanlega margar og sjálfstæðar um alla eilífð, séu óskapaðar, hafi aldrei byrjað að vera til og líði aldrei undir lok. Þessar eilífu sálir nefnast sanskrítarorðinu púrúsa, og þar sem það er raunar allt annað hugtak en orðið sál í grískri og vestrænni heimspeki verður orðið ekki þýtt réttilega.

Önnur höfuðkenning Samkhya heimspekinnar er kenningin um prakriti. Eins og púrúsa er ranglega þýtt með orðinu sál, eins er prakriti ranglega þýtt með orðinu efni. Prakriti er grundvöllur allrar tilverunnar, (nema hinna mörgu púrúsa), ekki aðeins alls efnis heldur

allra eiginleika, hvata og tilfinninga, og einnig allra vitsmuna, sem ekki eru hreinn andi (púrúsa).

Þriðja höfuðkenning Samkhya er um tilveru og eðli hinna þriggja gúna.

Upphaf þessarar heimspeki er rakið til heimspekingsins *Kapila.* Talið er að Kapila hafi verið uppi á 7. öld f.K. Sjálfur hefur Kapila ekki skráð nein heimspekirit, og allt sem um hann er vitað eru helgisagnir. Í ýmsum heimildum er hann sagður sonur Brahma. Í Bhagavat — Gita er hann kallaður spámaður guðsins Visnú, og enn aðrir segja hann guðinn Agni í mannslíki.

Aðrir þekktustu spámenn Samkhya heimspekinnar eru Asúri, sagður uppi um 600 f.K. Pancasikha ( uppi á 1. öld e.K.) og Isvarakrisna frá 3. öld e.K. — Pancasikha er sagður höfundur kenningarinnar um hina þrjá gúna, en Isvarakrisna er höfundur elzta heimspekirits, sem varðveitzt hefur um Samkhya heimspekina. Ritið nefnist Samkhya Karika og er talið vera byggt á eldri heimspekiritum, sem nú eru glötuð.

*Orsök og afleiðing.* — Samkhya heimspekin heldur því fram, að bæði púrúsa og prakriti séu

eilíf. Þróun er því aðeins birting þess, sem alltaf hefur verið til, líkt og duldir eiginleikar trésins í frækorninu. Það sem ekki er til getur aldrei orðið. Afleiðing er falin í orsökinni. Og það sem af orsökinni leiðir er sama eðlis og orsökin sjálf. Þráður (orsök) er úr sama efni og klæðið (afleiðingin), sem úr honum er ofið. Sólargeislinn, þráðurinn, sem lífvefur jarðar er ofinn úr, er úr sama efni og sköpun hans á jörðinni. — Ef afleiðingin væri ekki þegar fyrir hendi í orsökinni, gæti hvað sem er sprottið af hverju sem er. En reynslan kennir okkur að það er ekki í samræmi við veruleikann.

Á sama hátt og allt, sem skapast, er aðeins birting, eins er eyðing aðeins afturhvarf hins skapaða og fullþroskaða til hinnar upphaflegu orsakar. Alger eyðing er því alveg jafnóhugsandi og alger sköpun. — Fortíð og framtíð lifa í hinu eilífa núi, — og þar er hið horfna og ókomna skynjað af hærri vitsmunum.

*Prakriti.* — Prakriti er ekki eingöngu efnisgrundvöllur tilverunnar. Úr prakriti vex jafnt hlutveruleikinn og sú vitund, sem skynjar hann. Auk þess eru hinir þrír gúnar eðli prakriti og alls sem frá því kemur og til þess hverfur.

Prakriti er óskapað og án upphafs og líður ekki undir lok. Prakriti á sér enga orsök en er sjálft orsök veraldarinnar. Í samræmi við kenningu Samkhya — heimspekinnar um orsök og afleiðingu er veröldin sögð sama eðlis og prakriti. Og samkvæmt henni er allt, sem birzt getur í veröldinni, til í prakriti. Sá veruleiki, sem fólginn er í afleiðingunni er venjulega ekki nema brot þess veruleika sem dulinn er í orsökinni, hann getur í hæsta lagi orðið jafnmikill en aldrei meiri. Prakriti eyðist aldrei því að allt hverfur til þess aftur.

Prakriti gengur undir ýmsum nöfnum í indverskri heimspeki. Það er kallað brahma, eða það sem vex. Það er kallað maya, eða veröld hins afmarkaða og sundurgreinda. Og loks er það nefnt pradhana, eða orsök allra hluta og allra efnislegra og andlegra breytinga.

*Hinir þrír gúnar.* — Samkhya — heimspekin kennir að hinir þrír gúnar séu eðli prakriti og um leið allrar tilverunnar. Þeir eru sattva, rajas og tamas. Prakriti er í eðli sínu án meðvitundar. En sattva eðli prakriti er fræ vitundarinnar. Birting einhvers til hinnar ytri tilveru er sattva (sat: veruleiki). Baráttan við að hverfa frá prakriti og birtast í hinni ytri til-

veru er rajas. — Tamas er það sem sigrast verður á í þessari baráttu.

Hinir þrír gúnar fylgjast alltaf að í öllum hlutum og verum, þótt aðeins einn sé þar ríkjandi hverju sinni.

Í einstaklingum birtist tamas sem sljóleiki og formyrkvun, rajas sem ástríður, hvatir og barátta. Sattva birtist sem góðleiki, æðri máttur og hamingja.

Í steina- og jurtaríkinu er tamas eðlið ríkjandi. Með dýrum og mönnum ríkir einkum rajas eðlið. Með guðum og æðri verum er sattva eðlið allsráðandi.

Fullyrt er, að sattva sé þó ekki til án tamas, þótt það kunni að vera dulið. Og þar, sem sattva og tamas er, hlýtur rajas, baráttan, einnig að leynast. Frelsi mannssálarinnar (púrúsa) er því að losna algerlega undan áhrifamætti hinna þriggja gúna og um leið úr viðjum prakriti.

*Sköpun veraldarinnar.* — Í prakriti geta hinir þrír gúnar náð jafnvægi (Samyavestha) og þar verður allt eitt. Meðan þetta ástand varir, ríkir heimsnótt, pralaya. Þegar jafnvægi gúnanna raskast á morgni sköpunarinnar, hefst nýr heimsdagur, sem sagður er standa í 4.320.000.

000 ár. Veröldin tekur þá að skapast úr prakriti eftir háttbundnu lögmáli og í ákveðinni röð. Þættir tilverunnar birtast einn af öðrum 23 að tölu (auk púrúsa og prakriti).

Fyrstu níu þættir þessarar sköpunar eru allir þættir ósýnilegrar tilveru. En þeir eru grundvöllur hins jarðneska veruleika. Þessir þættir tilverunnar eru:

1. Púrúsa. (Sálir)
2. Prakriti. (Grundvöllur alls hins skapaða)
3. Buddi eða Mahat. (Vitsmunir)
4. Ahamkara, sjálfsvitund.
5.-9. Hinar 5 tanmatras eru alheimslegur grundvöllur hljóðs, tilfinninga, ilms, litar og smekks.
10. Manas.
11.-15. 5 skilningarvit.
16.-20. Fimm starfstæki.
21.-25. 5 höfuðskepnur eter, loft, ljós, vatn og jörð.

Fyrsta sköpun prakriti er *mahat*, („hinn mikli") eða búddhi. Búddhi er hinn alheimslegi grundvöllur skynjunar, skilnings og hugarstarfsemi. Það skynjar og dæmir veröldina.

Það er í manninum aðsetursstaður hamingju og þjáninga og það er hin virka vitund hans, sem stendur mitt á milli skilningarvitanna og hugans annars vegar og púrúsa, hins þögla áhorfanda hins vegar. Púrúsa skynjar veröldina gegnum búddhi. Búddhi (innsæishugurinn) er æðsti eiginleiki prakriti, upplýstur af púrúsa. Í búddhi geymist einnig karmaforði mannsins og dulvitað minni.

Búddhi, eins og allt annað í tilverunni, skyjar aðeins niður en ekki upp. Það getur því greint á milli sín og prakriti, en ekki milli sín og púrúsa.

Eftir búddhi eða mahat skapast ahamkara. Mahat er grundvöllur meðvitundar, en ahamkara sjálfsvitundar. Höfuðeinkenni ahamkara, sem skapar allar hinar margvíslegu einstaklingsvitundir, er abhimana, — eða ástin á sjálfum sér.

Úr tama — eðli ahamkara skapast (með tilstyrk rajas) hin fimm tanmatras. Þær eru ósýnilegar hliðstæður höfuðskepnanna og samstilltar hinum fimm skilningarvitum. Fyrst skapast hin innri veröld hljóðsins. (Talað er t. d. um tvenns konar loft, akasa. Hið fyrra er karanakasa, loft án efnis, sem fer í gegnum allt.

Hið síðara karyakasa, eða loft úr efni). Eftir hina innri veröld hljóðsins skapast grundvöllur tilfinninga (snertingar), ilmans, sjónar og smekks. Þetta eru hin fimm tanmatras. Þau eru grundvöllur jarðnesks veruleika (jafnt hlutveruleikans og þess sem hann er skynjaður með) en sjálf óskynjanleg venjulegum mönnum.

Þessir níu þættir framvindunnar, sem hér hafa verið nefndir, heyra til óskynjanlegri tilveru. Hinn tíundi, manas, (muni) er hinn fyrsti sem við höfum reynslu fyrir. Manas, hugurinn, er milliliður milli skilningarvitanna og búddhi, á sama hátt og búddhi er milliliður milli hugans og púrúsa. — Manas, eins og skilningarvitin fimm og hin fimm starfstæki, er skapaður úr sattva-eðli ahamkara. Hvorki hugurinn né búddhi er gætt eilífðareðli. Þeir eru báðir aðeins tæki púrúsa (sjálfsins), sem er hin eina eilífa vitund mannsins.

Skilningarvitin fimm eru sögð sköpuð af viljanum til að skynja hin fimm tanmatras. Samkhya-heimspekin kennir að úr ahamkara skapist samtímis skilningarvitin og sá hlutveruleiki, sem svarar til þeirra. Hvorutveggja er skapað úr hinu sama. Sattva-eðli ahamkara verður að

skilningarvitum, en tamas-eðli ahamkara ummyndast í hlutveruleika. Þetta er lausn Kapila á vandamáli Kants um „das Ding an sich“ og „das Ding an mich“.

Skilningarvitin eru stundum nefnd dyr, og manas (hugurinn) er dyravörðurinn, sem stjórnar hvernig valið er úr þeim skynjunum sem inn um þessar dyr koma.

Viljinn sendir einnig boð sín gegnum manas til starfstækja mannsins. — Samkhya-heimspekin tilnefnir fimm slík starfstæki: Málfærin, hendur, fætur, meltingarfæri og æxlunarfæri.

Höfuðskepnurnar fimm, eter, loft, ljós, vatn og jörð skapast úr tamas-eðli hinna fimm tanmatras með tilstyrk rajas. Það er sagt að gerist á þann hátt að úr tanmatras myndist efnisatóm, sem síðan tengjast saman í margbreytileg efnasambönd og mynda hina ytri veröld, hinn efnislega alheim. — Þessi efnisheimur er þó ekki ný tilvera, því að allir eiginleikar hans eru um eilífð til í prakriti.

Þegar kvöldar að, hverfur öll þessi sköpun, hinir tuttugu og þrír þættir tilverunnar, í öfugri röð aftur til prakriti — og heimsnótt hefst að nýju.

*Púrúsa.* — Öll hin mikla leiksýning veraldarinnar er sögð sett á svið vegna púrúsa, sem er raunar hin eina vitund, þar sem prakriti er án vitundar, sé það ekki upplýst af púrúsa. Púrúsa er hin fyrsta orsök veraldarinnar, vegna þess að það er hún sem á morgni heimsdagsins raskar jafnvægi hinna þriggja gúna, en það verður aftur til að hrinda af stað framvindunni. Prakriti er blind en púrúsa verður forsjón þess.

Sálirnar (púrúsa) eru óendanlega margar. Þær koma ekki frá neinni alheimssál, því að þær eru að eilífu sjálfstæðar og aðgreindar hver frá annarri. Frelsi þeirra er ekki að sameinast slíkri heimssál, heldur hitt að losna úr viðjum prakriti. Ef sálirnar (púrúsa) væru ekki sjálfstæðar gæti ein ekki frelsazt án þess að allar hinar frelsuðust líka, en að dómi Samkhyaheimspekinnar er reyndin önnur. Sagt er að það sé sál í öllu sem lifir. Þessar sálir eru eins en virðast mismunandi vegna hinna mismunandi gerva sem þær íklæðast.

Hvert er þá eðli púrúsa? — Hún er ekki líkaminn eða afleiðing efnisins (prakriti). Hún er ekki skilningarvitin, þar sem þau eru aðeins tæki vitundarinnar. Hún er ekki hugurinn

(manas) eða innsæishugurinn því að þeir eru báðir skilningarvitum og eru í sjálfu sér án vitundar. Púrúsa er hreinn andi, óháður tíma, rúmi og breytingum. Púrúsa er þekkjandinn, allt hið þekkta er prakriti. Meðan sálirnar (púrúsa) eru í viðjum efnisins og bundnar örlögum hinna þriggja heima smíðar prakriti þeim gervi frá hinu lægsta til hins hæsta og birtist þeim í margbreytilegum myndum. En frelsuðum sálum birtist prakriti í sinni upprunalegu mynd. Púrúsa hefur þó aldrei beint samband við efnisveruleikann, hamingju og þjáningar. Allt þetta birtist púrúsa gegnum búddhi. Þessi reynsla snertir púrúsa aldrei beint en endurspeglast eins og litir speglast í kristalli. Þeir heyra honum ekki til í raun og veru. Púrúsa er óumbreytanleg og í eðli sínu óháð prakriti og hinum þremur gúnum.

Kenningar Samkhya-heimspekinnar um eðli púrúsa og samband hennar og prakriti er leyndardómur, sem erfitt er að skilja, og þessar kenningar hafa sætt gagnrýni margra indverskra heimspekinga: Hvers vegna ættu hinar frjálsu og fullkomnu sálir að lenda í viðjum fáfræðinnar og hinnar blindu náttúru, prakriti, fyrst tilgangur lífsins er að losna úr þessum böndum?

Samkhya-heimspekin er þögul um þennan leyndardóm.

Vedanta-heimspekin gagnrýnir tvíhyggju Samkhya og telur óhjákvæmilegt að bæði prakriti og púrúsa eigi sér sameiginlegan grundvöll, — að öll tilveran sé af einni rót.

## *Yoga heimspekin*

Um yoga heimspeki Patanjalis hefur áður verið rætt (bók V). — Yoga er viðurkennt af öllum indverskum heimspekikerfum, jafnt þeim sem styðja búddisma og jainisma og hinum, sem kenna sig við brahmatrú og hindúisma. Það er sagt jafngamalt brahma (guði). — Í Rig-Veda er talað um hugleiðslu, sem beint var að loganum helga. Í Atharva-Veda er kennt, hvernig öðlast megi yfirnáttúrlegt vald með meinlætalifnaði. Upanishadar kenna mönnum, eins og Yoga-Sútra Patanjalis, að leita uppsprettu þekkingarinnar hið innra með sér með aðferðum hugleiðslunnar. Gautama Búdda iðkaði öll stig yoga og náði hinu æðsta samadhi. Og yoga heimspekin rann saman við kenningar búddismans og jainismans um leiðina til æðra lífs.

Í Yoga-Sútru Patanjalis er ausið af öllum þessum lindum, og auk þess af þekkingu hinna mörgu munnlegu yogaskóla, sem aldrei skráðu fræði sín. Hún sameinar þessi fræði öll í eitt kerfi og telst því fyrsta bók yoga heimspekinnar.

Fræðimenn eru ekki á eitt sáttir um aldur þessarar bókar. Prófessor Jakobí telur yogakerfið fullskapað um 300 f.K. — Prófessor Woods telur Yoga-Sútru ekki eldri en frá 4. öld e.K. og byggir þá skoðun sína á því, að heimspekingurinn Nagarjúna (frá 4. öld e.K.) nefnir ekki yogakerfið í riti sínu Karika. Þetta eru þó naumast einhlít rök, þar sem Nagarjúna nefnir yogakerfið í öðru rita sinna (Upayakausalya-Sútru), sem eitt hinna átta heimspekikerfa.

Aðrir fræðimenn telja Yoga-Sútru Patanjalis frá 2. öld f.K. og byggja það á umsögn Bhoja í riti hans Rajamartanda. Samkvæmt henni ætti höfundur Yoga-Sútru að vera málfræðingurinn Patanjali, sá er skrifaði hið fræga rit Mahabhasya um málfræði Panini. Um þetta verður þó ekkert fullyrt.

Yoga er byggð á grunni Samkhya heimspekinnar. Þessir tveir skólar virðast í upphafi hafa

verið einn og báðir gengið undir nafninu Samkhya. — Yoga er nefnd Sesvara Samkhya til aðgreiningar frá Nirisvara Samkhya, sem kennd er við Kapila. Í þessum nafngiftum kemur fram meginmunur þeirra. Yoga kennir að guð sé grundvöllur veraldarinnar (Sesvara: fræðsla um guð), en Samkhya Kapila hafnar honum, sem grundvelli tilverunnar, (nír-ísvara: án guðs).

Yoga-heimspekin viðurkennir ekki heldur, að hin þrjú „innri skilningarvit“ Samkhya, þ. e. búddi (skilningur), ahamkara (sjálfsvitund) og manas (hugur), séu aðgreindir þættir vitundarinnar. Þeir eru í Yoga-Sútru einu nafni nefndir chitta; — hugurinn í sinni víðtækustu merkingu.

Kenning Samkhya um þróun prakriti er tekin upp í yoga heimspekina með smávægilegum breytingum. Hins vegar lítur yoga heimspekin ekki á prakriti sem hinn eina grundvöll tilverunnar, eins og Samkhya gerir. Yoga kennir að þessi grundvöllur sé bæði guð og prakriti. Prakriti er hin blinda náttúra, en guð er aflið sem samræmir þróun prakriti tilgangi andans. Tilgangur sálarinnar er bæði í yoga- og Samkhya-heimspekinni að losna úr viðjum prakriti.

En yoga kennir, að hin frjálsa sál sjái guð og fyllist anda hans. Þetta er eðli samadhi.

Samkvæmt yoga heimspekinni er einstaklingurinn ekki jafn háður prakriti og Samkhya kennir, og getur með hjálp Isvara (guðs) losnað undan valdi þess.

Þá leggur yoga meiri áherzlu á starfið en Samkhya gerir. Hið síðarnefnda er fyrst og fremst heimspekikenningar, yoga er hins vegar aðferð til að breyta þessari heimspeki í starf, og kenna mönnum hvernig hægt er með réttu líferni, trú og hugleiðslu að skynja hið yfirskilvitlega, og láta það þannig breytast í raunverulega tilveru.

### *Mimamsa heimspekin*

Með Gautama Búdda hófst fyrir 2500 árum fyrsta byltingin gegn andlegum yfirráðum brahmanna og helgivaldi prestanna. Fórnfæringar voru forboðnar en í þeirra stað boðuð kenning um friðhelgi lífsins. Veraldleg afkoma brahmaprestanna versnaði stórum, og áhrif þeirra og völd minnkuðu að sama skapi. Í stað trúarinnar á forréttindi brahmana kom kenningin um, að allir menn væru jafnir, nema af sínum eigin verkum. Enginn taldist lengur helg-

ur maður vegna ættar sinnar, og strangar kröfur um siðferði og andlegar iðkanir voru gerðar til þeirra sem töldust verðir hins gula klæðis.

Búddatrúin fór sigurför um allt Indland fyrstu aldirnar, en hin forna yfirráða- og forréttindastétt fór er stundir liðu að endurskipuleggja fræði sín og smíða sér ný vopn í baráttu fyrir endurreisn brahmatrúarinnar.

Eitt öflugasta vopnið í þessari sókn var heimspekiskólinn Púrva Mimamsa („hin fyrri rannsókn“). Hlutverk hans var að safna saman dreifðum fyrirmælum og útskýringum á gömlum helgisiðum og fórnarathöfnum, sem ýmist var að finna í munnmælum sem geymzt höfðu í minni manna eða í bramönum (einum hluta Vedabóka). Þetta efni var endurskapað í nýtt kerfi og við það bætt heimspekikenningum og útskýringum, sem nota mátti ýmist til réttlætingar helgivaldi prestanna eða til að mæta árásum annarra heimspekiskóla. Brahma trúin sigraði og áhrif Mimamsa urðu meiri en nokkurs annars indversks heimspekikerfis. — Um aldaraðir og fram yfir miðja 20. öld hefur forskrift Mimamsa mótað ekki aðeins helgi- og trúarathafnir hindúa heldur einnig lög þeirra

og breytni, og staðið þeim fyrir andlegum og veraldlegum framförum, eins og öll andleg yfirdrottnun hefur fyrr og síðar gert.

Mimamsa boðaði í fyrstu trú á marga guði. En vegna gagnrýni annarra heimspekikerfa var guðstrú síðar smeygt inn í kerfið, þótt hún sé í eðli sínu andstæð hinni upphaflegu kenningu.

Þótt tilgangur Mimamsa sé augljóslega af veraldlegum toga spunnin, fer samt ekki hjá því, að ýmsir heimspekingar skólans hafa stjórnazt af andlegri sjónarmiðum og verið einlægir þátttakendur hinnar miklu leitar mannsins að skilningi á veröldinni og sjálfum sér.

Það sem gefur Mimamsa sjálfstætt heimspekilegt gildi, er kenning hennar um dharma eða apurva, sem er uppistaðan í karma heimspekinni.

Upphafsmaður Purva Mimamsa er talinn Jaimini, höfundur Mimamsa-Sútru, fyrstu bókar þessa heimspeki skóla. Aldur bókarinnar er óviss, en hún getur ekki verið eldri en í hæsta lagi frá 4. öld f.Kr. þar sem hún er sannanlega yngri en Nyaya-Sútra og Yoga-Sútra Patanjalis. Líklegt er að hún sé töluvert yngri en frá 4. öld. — Mimamsa-Sútra er í tólf köflum, en aðeins hinn fyrsti fjallar um heimspekileg vanda-

mál. Hinir ellefu fjalla einkum um réttar fórnarathafnir og tilgang þeirra.

Heimspekingurinn Sabara, sem uppi var á 1. öld f.K. skrifaði skýringarrit við sútru Jaiminis, er hann nefnir Bhasya („umsögn“). Þessi bók Sabara er talin merkasta heimildarritið um heimspeki Mimamsa skólans.

Þriðji þekktasti heimspekingur þessa skóla er Kúmarila, uppi á 7. öld e.K. — Kúmarila er talinn gáfaðasti baráttumaður Mimamsa heimspekinnar. Hann á svör við öllum efasemdum um að hver einasta setning Vedabóka sé óskeikull og eilífur sannleikur. Kúmarila er sagður hafa verið brahmani frá Behar og snúizt frá búddatrú til brahmatrúar. Sagan segir, að hann hafi að lokum viljað brenna sig lifandi fyrir „hinar tvær syndir sínar“, — að tortíma fræðara sínum, sem var búddatrúar, og afneita tilveru guðs í ákefð sinni við að sanna óskeikulleika Vedabóka, og að helgiathafnir Vedanna væru eina örugga leiðin til sáluhjálpar.

Mimamsa tileinkar sér að miklu leyti rökfræði Nyaya og Vaisesika heimspekinnar, og gerir ekki heldur neina tilraun til að útskýra sambandið milli anda og hlutveruleika. En þegar um dharma er að ræða hafnar Jaimini öll-

